{Þeirra íslendsku evángelisku Smárita Nr. 65.}

# Tilskrif

um

andliga uppvakníngu fólks, á Hálondunum í Skotlandi, vid nærstlidin aldamót.

---

Minn kjæri Herra!

Það kom mér einganveiginn óvart, nær eg af ydar sídarsta tilskrifi vard þess var, ad skýrsla sú, sem eg, einn tíma eptir annann, hafdi meddeildt ydur, snertandi ástand trúarbragdanna í þessum parti landsins, hafi fallid ydur, og ødrum vinum vorum í Edíngborg, vel í géd. Og med því þér hafid géfid mér til kynna þánka Dtr. Erschins, Dtr. Hunters, og annara æruverdra vina, ad sú dýrmæta endurlífgan trúarbragdanna vor á medal ætti ad gjørast enn framar þjódkunn, og það mundi þessvegna gagnligt, ad semja opinbera frásøgu þarum, þá vil eg nú leitast vid ad géfa ennþá nákvæmari afmálun um þetta, enn ádur, og útskýra þessarar endurlífgunnar upptok og framgáng. Því eins og eg efast ecki um, ad áhyggja sú fyrir trúarbrøgdunum, sem í þessu plátsi uppvakist hefur, allareidu verkad hafi mikinn føgnud medal Einglanna fyrir Guds tróni, þá væri þad aumt, ef hún ei verka skyldi svo vída, sem skéd gjæti, lofgjørd Guds, medal vorra christnu brædra hér á jørdunni.

Þeir sem búa hér í landiuu, hafa, sem þér vitid, heilaga Ritníngu sin á medal á Gælisku, sem er þeirra eigid túngumál. Nýateſtamentid, Sálmabókin og sá litli Aſsemblýs Barnalærdómur hefur um lángann tíma lesinn verid í skólum þeirra. Á þennann hátt hefur fólkid í þessum landsins parti haft nockra þeckíngu um hofudatridi þeirrar heil. Historiu; til dæmis um skopun heimsins, fall mannsins, svo-vel sem um líf Frelsara vors, hans dauda, upprisu og himnafør. Þeir þecktu ogsvo nockrar af þeim ytstu línum christiligs lærdóms; en yfirhofud var þó þecking þeirra á adalatridi Christindómsins vansafull og ógreinilig; og meiníngar þeirra um trúarbrogdin voru í morgum mikilvægum atridum nærstum því villtar. Yfrid fáir þecktu rétt þann sanna veg, sem Evangelíum kénnir syndugum manni til ad sætta sig vid Gud. Meiníng sú, ad þeirra eigin verk, ef góð væru, mæltu fram med þeim, til ad odlast Guds nád, og oflúdu þeim umbúna af giædsku hans, var nærri því almennt drottnandi. Þetta létu þeir í ljósi í sínu dagliga tali, og nærfeldt vid sérhvert tækifæri, sem á trúarbragda sakir nockud minnst var. Þeirra ímindanir um þad, til hvors syndin vinni, og hvad af henni fljóti, voru í mesta máta ófullkomnar. Eg hefi heyrdt marga á sóttarsænginni, eptir þad þeir med því algeinga formi játad hofdu sig syndara ad vera, neita því þó; ad þeir nockud eiginliga íllt adhafst hefdu. Og í tilliti daudans dróga þeir sína von um eilífa sælu af þeim ástædum, ad þeir þóktust aldrei hafa neinum manni rángt til giordt.

Miog fáir sýnduſt hafa adra meiníngu undir þeim ordum, þegar þeir sogduſt vænta fyrirgéfníngar hjá Gudi fyrir Christs sakir. Svo sem þeir voru án þeirrar sonnu

og lifandi þeckingar um Gud, um Christum, um Evangelium, og sitt eigid sálarástand, svo lifdu þeir, eins og likligt var, einúngis sialfum sér og heiminum. Ad vísu voru þeir ecki hádir neinum opinberum glæpum, ad undantekinni lýgi og munneidum. Þeir báru heldur af ödrum, í tilliti sparsemdar, ydjusemis og fridsamligrar umgeingni, en frá þeim sonnu trúarbragdanna ástædum voru þeir framandi. Þann sanna ótta og elsku til Guds brast þá, ad eg ecki tali um lifandi trú á Christum. Madur kann ad hata syndir og glæpi, vegna straffsins, án þess ad óttast Gud; ræksja dygdir og mannkosti, fyrir sóma og launa sakir, en elska þó ecki Gud; og ad meta Christs endurlausn, án þess ad trúa þó rétt á Christum. Svoleidis bar þá fólkid bersýniliga litla áhyggju fyrir því nálæga edur ókomna ástandi sálna sinna. Ad vísu sókti þad kyrkjuna, var til Sacramentis, og héldt sér frá útvortis verkum á sunnudögum. En þessi útvortis tídkan var ecki nema yfirskin trúarinnar. Nærsta litid var lesid í Ritníngunni í heimahúsum, litil rækt lögd vid rétta uppfrædingu barnanna í Guds ordi; mikid óvída framin opinber Gudsdýrkan í húsinu (og þar sem þad átti ad heita giördt, skédi þad án allrar sannrar andagtar); aldrei var haldid neitt gudligt samtal um andliga hluti; og ecki á neinn hátt erfidad fyrir þeirri fædu, sem varir til eilífs lífs. Hinum mesta parti sunnudagsins var eydt í ydjuleysi, bæasnatti og hégómatali, og á hinum ödrum dögum valla hugsad til gudligra hluta.

Þegar eg nú vil skýra frá, á hvorn hátt ad fólk þetta leiddist til ad bera meiri umsorgun fyrir sinu sálar gagni, enn ádur, er naudsýnligt eg seigi líka nockud frá

siálfum mér. Eg var settur til Prests vid sofnud þenn=ann 1786, þá eg hafdi tvo um tvitugt. Jafnvel þó eg á þeim tíma væri ad vísu einginn foraktari þess sem héilagt er, hafdi eg samt eingann sannann krapt trúar=bragdanna í hjarta minu. Eg hafdi einga sálarhvild í þeirra æfíngum, og eckért eiginligt eptirlæti af, ad upp=fylla skyldur míns embættis opinberliga edur heimugliga. Ad hafa gott ord á mér, og vidleitni ad vera sóknar=fólki mínu gèdfeldur, var, ef ecki hin einasta, þá hin stærsta knýandi orsök til ad sýna nockra kostgjæfni og framkvæmd í minum embættis verkum. Allvel lét eg mér lynda, þó fá born kjæmi til ad catechiseraſt; vegna þess, ad þá vard eg þess fljótari ad ljúka af embættis=gjord minni, og eg lét mér nægja þann þánka, ad þó fólk ecki hyrdti um slíkar æfíngar, þá væri Þad ecki mín sök, heldur þess. Eg minnist þess vel, ad eg opt flýtti mér, af einslags leidindum, ad ljúka sem fyrst af því verki, svo eg gjæti komist sem fyrst heim til mín, til ad haf=ast ad, eda vera vid eitthvad veraldligt, sem væri skémti=ligra. Mínar opinberu bænir og rædur voru óptast nær kaldur, og einasta til þess ad koma á verkid nafninu. Enda gáfu tilheyrendur minir lítinn gaum ad þeim, á þeim tíma, og hugsudu lítid edur eckért eptir þeim. Eg prèdikadi ad vísu móti vissum löstum, og fyrir sjónir setti vissar dygdir. En eg hafdi einga hugsun á rót=gróinni umbreytíngu hugarfarsins, því eg fann ecki sjálfur til kraptarins, sem liggur í þessum Ritníngarinnar ord=um: "ad holdsins sinnislag sé fjandskapur í gégn Gudi!" og í þessum: "ef nockur er í Christó, þá hlýtur hann ad vera ný sképna"; sem og í þessum: "nema nockur verdi ad nýu fæddur, kann hann

ecki i-Guds riki inn ad komast." Eg taladi ad vísu um ad bera góda ávexti, en gjætti ecki þess ad tréd væri í sjálfu sér vondt, og þessvegna hlyti þad fyrst ad verda gott, ádur enn þad gjæti þá sonngóda borid. Fólkid var samt vel ánægt med kénningar mínar, af því hvorki eg né þad horfdi leingra fram á hlutina. Sá mesti eptirþánki, sem sumar af prédikunum mínum uppvöktu hjá nockrum, þegar þeir voru komnir frá kyrkjunni, var sá, ad sumir sögdu: "góda rædu feingum vid ad heyra í dag"; hvorju þá adrir tilfinníngarlítid samsinntu, og bættu því vid: "já víst fáum vid margar gódar ávísanir, ef vér adeins gjætum breytt eptir þeim." Þesshåttar hjartalausar vidurkénníngar voru öll sú forbetran, sem kénníngar mínar verkudu, og eg héld sá einasti ávöxtur sem þær færdu. Tilheyrendur mínir báru mér ad vísu þann vitnisburd, ad eg leitadist vid ad gjöra skyldu mína; en þeir þóktust þá líka, frá sinni hálfu, vera fúsir ad læra sína; en hvort nockur í raun og veru sönn betran léti sig í ljósi, og hvort þeir réttu ávöxtir réttlætisins, innra sem ytra, gjæfu sig fram, var þad, sem hvorki Prestur né sóknarfólk hans gjördi sér nockra samvitsku um. Hafi þar verid nockrar persónur í sókninni á þeim tíma, sem lifad hafi sönnu lífi trúarinnar fyrir Evangelii krapt, þá þeckti eg þær ecki, var ecki heldur fær um ad þeckja edur skilja, hvors anda ad þær væru. Sídan hefi eg þó komist ad raun um, ad þvílíkar manneskjur hafa þó fáeinar til verid; en þeirra líf var hulid; og þær voru skildar vid heiminn allar, nema ein edur tvær, ádur enn þær feingju þeckt mig, (þó eg þeirra Prestur væri), fyrir sinn andligann bródur. Eg var ád miklu leiti sem framandi í þeim eiginliga

andliga skilníngi christligs lærdóms, hvad snertir spillíngu mannligs hjartalags, ríkdóm og frelsi endurlausnarinnar fyrir Christum, réttlætíngar fyrir trúna á hann, og naudsýn heil. Anda verkana í mannsins sálu; og þad sem eg þeckti ecki af reynslunni sjálfur, gat eg ecki til nota útlistad fyrir odrum. Eg lagdi eínga alúd á ad bidja Gud um adstod sína til ransóknar híns guddómliga sannleika.

Eg veit fyrir víst, ad eg — eptir sidvenjú — hafdi opt lesid trúarjátníngu vorrar kyrkju, án þess ad hafa ransakad trú mína á hennar innihaldi, því eg bar lítla umsorgun fyrir, ad bera hana saman vid ritnínguna. Eg ad vísu skildi ástædur trúarinnar eptir bókstafnum, en þá innvortis andligu sannfæríngu og reynslu vantadi mig. Þessvegna hvad eg prédikadi út af trúnni, prédikadi eg eptir holdligri skynsemi, en ecki af andligri reynslu.

Medan eg sjálfur var nú svo framandi frá sannleikanum og snaudur af gudligri reynslu, komu tvær manneskjur, uppvaktar í samvitskunni af hrædslu fyrir syndum sínum, til mín, ad leita sér uppfrædíngar. Þær ímindudu sér, ad Prestúrinn hlyti efalaust ad vera gudsmadur, og velædur í ad brúka þann rétta læknisdóm vid meinum sálarinnar. En þær fóru yfrid villt í þeirri meiníngu, hvad mig snerti; því eg var aldeilis óæfdur í þeirri mikilvæguſtu prestakyldu, jafnvel þó eg hefdi nockurnveiginn lærdt hana útvortis af bókinni. Ad vísu taladi eg nockud í uppfrædíngar skyni vid þær, en þad gat eínga sanna hugstyrkíngu veitt þeim; en þá var betur, ad þær voru undir eins annars þúsund betri læknara hondum, sem lagdi sitt eigid balsam vid þeirra

særdu sálir, sem læknadi þær og gaf þeim lífid. Því þegar framlidu stundir, urdu þær af Gudi svo mentadar, ad þær eru bádar ordnar ad stadföstum og upplýstum christnum manneskjum. Þessar manneskjur eru þær fyrstu, sem umvendst hafa, sídan eg tók ad sýnast vid ad kénna; en þær kunna þó ecki ad teljast med ávexti míns embættis. Nú tók þó Drottinn eptir þetta smámsaman ad leggja grundvoll, til ad safna sér ríkri uppskéru, í þessum sofnudi. Hann hefdi gétad svipt mér, sem gagnlitlu þræltetri, (er jafnvel var til hindrunar þeim sanna Christindóm), í burtu, og felldt yfir mig dóm. hins ónýta þjóns; en honum þóknadist, af nád sinni, ad spara mig, og vitja min í miskun sinni; já, þad sem meira var, ad gjøra mig ad verkfæri til ad framkvæma sitt nádarverk í annara sálum. Dýrd sé hans nafni, sem bodid hefur ljósinu fram ad skýna úr myrkrunum! Þad sem fyrst studdi til þess, ad leida mig til lifandi þeckingar þess himneska sannleika, voru skrif gudhræddra manna, sem einn og annar sannchristinna vina minna gáfu mér til yfirlesturs. Ámedal þeirra má eg minnast verks þess æruverda Johns Newtons og Thómasar Schott; því af lestri þeirra hafdi eg mikid sálárgagn. Í fyrstu var eg þó mjøg dofinn til ad taka á móti þessara ritgjørda sannfæranda krapti; en smámsaman sannfærdist eg þó um, ad lærdómar þeirra samhljódudu Ritníngunni, og ad þad væri alls eínginn efi á, ad þeir réttir væru. Þessvegna vogadist eg ecki ad prédika neitt, sem beint mótistriddi þessum lærdóml; en eg framfærdi hann þó sjálfur bædi mikid sjaldan, ógreiniliga og med ósæmiligu dauflyndi. Í lúdurinn var ad sonnu blásid, en hann gaf óskilmerkiligt hljód. Mínar prédik-

anir voru nú innifaldar í blandadri lærdóms tegund. Eg kénndi það að vísu, að mannlig náttúra spillt væri, og þyrfti því hreinsunar við; að réttlætið gjæti ecki komið út af lögmálinu; að vér ei gjætum réttlætst fyrir Guði af vorum eigin verkum, heldur einskostar fyrir réttlæti Christís oss tilreiknað, og með trúnni meðtekið. En í því að útskýra náttúru þeirrar sáluhjálpligu trúar, blandaði og ofmjög saman ávöxtum hennar við hennar veru; þeinkti þessvegna og kénndi, að þegar vér sýndum einlægá viðleitni í að hafa þá til að bera, þá heimilaði það sama oss aðgáng til Guðs náðar, gjörði oss að réttlátum manneskjum og umbúna verðugum fyrir hans augliti. Svoleiðis, með stuttum umsvifum nam eg staðar við þann sama púnkt, frá hvörjum eg útfarið hafði; alltíð byggjandi syndarans meðtekníngu hjá Guði á því, hvað vilji hans væri samhljóða Guðs lögmáli; eður með öðrum orðum, á forþénustu hans góða hugarfars, og á þann hátt leitaðist við að uppbyggja mannsins eigið réttlæti, undir nafni trúarinnar á Christ. Eg játaði að vísu, að þessi samhljóðan mannligs vilja við Guðs lögmál, hlyti alltíð í þessu lífi ófullkomin að verða, en eingu að síður, svo ufullkomin hún væri, (þar Christur hefði borgað það ábrysti), hlyti hún þó, að vera grundvöllurinn til vorrar réttlætíngar og meðtekníngar hjá Guði. Hér steypti eg á ásteytíngar steini hinnar einlægu hlýðni, að minnsta kosti í tilliti máls undirstöðunnar, ef ecki í tilliti aldeilis berligra orða; ímyndandi mér, að sú stóra náð, sem mönnunum, fyrir Christs pínu og meðalgaungu afrekuð er, væri sem einslags tilslakan í Guðs lögmáli; og að vor ófullkomna hlýðni — heiðruð með þeim titli, að kallast,

einlæg — væri nú allt þad, sem Gud af ofs heimti. Þessa kénningu má þó finna í ritum ýmsra lærdra manna vor á medal, og, svo ósambodinn sem hún er bædi skynsemi og ritníngu, vera á medal sumra þeirra í afhaldi, af því hún smjadrar svo mjøg fyrir mannsins sérþókta, og grátligu hyrduleysi um hluti þá, sem eilífdinni vidkoma. Þegar nú þessi minn ádursagdi nýi kénníngur-máti uppvakti, hjá nockrum af sóknarfólki mínu, eptirþánka, gat hann þó ei annad enn villt fyrir því og afvegaleidt þad; og þessvegna blifu þeir eins, eptir sem ádur, óupplýstir og óumvendtir.

En þad sem nú framveigis, fyrir utan ádursagt, einkanliga vakti hjarta mitt, og opnadi augu min, til ad gefa gaum ad sannleikanum, samt upptendradi hjá mér elsku til gudligs lifnadar, og girnd ad géta ordid ødrum til uppbyggíngar, var ad lesa lífsøgur þær, sem hin evangelisku smárit innihalda. Kraptur gudligrar nádar auglýsti sig fyrir mér dásamligann, út af hegdun þeirra, føgnudi þeim og sigurhrósi, med hvørju margir þeir sanngudhræddu, sem þar um getur, høfdu skilid vid heim þennann. Eg sá ad þeirra sigrihrósandi von, hafdi sinn styrk, ecki út af ánægjufullri ímindun um ádur vellifad líf, heldur út af traustí til þess óforþénta Christs kjærleika, og út af vissu um hans krapt og fúsleika, til ad frelsa jafnvel hina stærstu syndara.

En stakliga tóku á mig frásøgur um Presta þá, sem erfidad høfdu í Guds kyrkju med mikilli kostgjæfni og lucku, og høfdu svo dáid snemma æfi sinnar, fullir af gódum ávexti. Nú hugsadi eg til min siálfs, hvør allareidu lifad hafdi leingur enn þeir, og leingur þénad í Prestsembætti, en gat þó ecki sagt eg borid hefdi neina

sérliga áhyggju fyrir velférd míns sóknarfólks, ellegar ordid, mér vitanliga, medal til, ad snúa einum einasta syndara frá villu hans vegar, edur til ad frelsa nockra sálu frá daudanum. Héradauki stodadi mikid til ad innræta hjarta mínu til fulls þann sannleika — sem eg var nú smámsaman tekin til ad þeckja — umgeingni og eptirdæmi nockurra persóna, sem sannarliga gjæddar voru andligu sinnislagi, hverjum eg kunnugur vard, og í hverra lifnadi eg sá ljósa afmálun þess, sem eg ádur einúngis fundid hafdi í skrifligum fráfogum. Eg kann ecki heldur undanfella ad minnast á þá blessun, sem eg uppskar af prédikun, bænum og umgeingní þess elsku-verda Christs þénara, Carls Simóns, frá Cambrygdu. Hann var madur, líka sem af Gudi til mín sendur, og var hjá mér til gésta tvo daga í Júnio 1796, prédikadi í kyrkju minni, og eptirskildi þvílíka ilman himneskra hluta, sem haldist hefur vid hjá oss, allt af sidan. Í frá þeim tíma tók eg ad kénna Jesúm Christum med toluverdt meiri andligri þeckingu og trausti, enn ádur. Frá Augústo 1797 til þess í Janúar 1798 prédikadi eg í samfellu, út af grundvallar lærdómum Christindómsins, og brúkadi ad mestu leiti þá somu texta og niðurrodun, sem finnst í því smáriti, er inniheldur 16 stuttar hugvekjur*). Nú gafst mér tækifæri ad sýna, út af Ritningunni, ad allir menn eru af náttúrunni Guds óvinir, óhlýdugir hans logmáli, og fyrir þá sok undirorpnir hans reidi og bannfæríngu. Eg ávarpadi þessvegna fólkid, ecki svo sem þær manneskjur, sem fyrir uppfósturs, fædíngar-réttar, edur Christs kyrkju sýniliga

*) Þessar hugvekjur eru þad 18da Nr. í þeim íslendsku evang. Smáritum.

samneytis sakir, væru allareidu eigendur sáluhjálpligrar-trúar, og annara Christindómsins nádargjæda, heldur sem syndara, undirorpna daudadómi, og sem enn-nú ecki væru ordnir nádarinnar hlutakéndur. Eg gjordi nú ecki eins og ádur, einúngis ad vanda um vid þad, fyrir vissa lesti og yfirsjónir, og hvetja þad til ad æfa vissar dygdir, heldur sagdi eg þeim, ad gjorvallar þeirra tilhneigingar og gedslag innvortis hlyti ad taka aldeilis nýa stefnu, og jafnvel dygdir þeirra fá nýtt form. Eg sýndi þeim þar hjá, ad þó þetta, sem eg segdi, feingi framgáng, kynni þad þó einganveiginn ad fridþægja fyrir yfirsjónir þeirra ad undanfornu, edur afþvo sok þá, er þeir allareidu væru ifallnir; já, eg sagdi þeim, ad syndin kynni aldeilis ecki ad fyrirgéfast, nema gjord væri fullnægja því yfirtródna Guds logmáli; já, ad hvorki kynni hreinleiki hjartalags þeirra, né stadfost hlýdni eptirleidis, ad odlast ad nýu þann rétt til eilífs lífs, sem í launa skyni, er vorir fyrstu foreldrar haft hefdu, og þad þó, sem fria nádargáfu af Gudi, þar réttur sá væri nú, fyrir syndarinnar skuld, oldúngis gjortapadur. Þó sagdi eg fólkinu undireins þar hjá, ad þó nú væri svo aumliga ástædt fyrir því, þyrfti þad samt alls ecki í orvæntingu ad falla, því eg hefdi þann góda bodskap ad bera því, ad Gud hefdi fundid rád til ad veita syndugum monnum fullkomna sáluhjálp; og þetta hefdi hann gjordt med því, ad láta sinn eiginn Son uppá sig taka manndómliga náttúru, til ad útvega, med sinni pínu og dauda, syndurunum fyrirgéfningu, og þar á ofan rétt til eilífrar sælu. Eg sagdi því, ad Gud, í því ad veita manneskjunum slíkar blessanir, breyti sem alvaldur sjálfrádi sinna eigin gáfna, en ecki

í tilliti nockurrar forþénustu, því hún væri alls eingin á þeirra sídu, hvørjir slíkar blessanir úr bitum bera. En framar kénndi eg fólkinu, ad samhljódan vors vilja vid Guds lögmál, (hvørja eg ádur áleit, sem grundvöll vorrar vidtöku hjá Gudi), væri gáfa ein af Gudi útbitt, þegar hann þó ádur búinn væri ad réttlæta oss og gjöra oss ad sínum óskabörnum. Loksins kénndi eg, ad í þeirri stóru sáluhjálp, sem Christur oss útvegad hefur, sé, svo sem hennar verúligur partur, ásamt ødru fleira, óadskiljanliga innibundin gjöf kjærleikgns til Guds og manna; vidbjódur á því vonda og tilhneiging til þess góda; og þad svo mjøg, ad ef manneskjan ecki sé endurnýud í anda síns hugskots, þá séu hvørki hennar syndir fyrirgéfnar, né hún sjálf, fyrir sína persónu, í nád hjá Gudi. Eg upphvatti þessvegna fólkid til, ad géfa gaum ad því, sem Guds ord segdi, um ástand þeirra, ad þeir ei skyldu tæla sjálfa sig, á þeirri hégómligu von, ad afla sér hyllis hjá Gudi, med sínum eigin verkum, heldur svo sem audmjúkir og allþurfandi stórsyndarar, sárbæna hann, fyrir Jesú Christi sakir, um syndanna fyrirgéfníngu, samt um gjöf hans heilaga Anda, sem hjálpi þeim til ad þjóna honum med trúlyndi og alúd; og eg áfýsti fólkid til, ad þad kostgjæfiliga ransaka skyldi ord sannleikans, sem alleina géti gjørt þá vísa til sáluhjálpar, og sídan, nær þeir odlast hafi nád hjá Gudi, ad þeir þá, med kostgjæfni, æfa skuli sérhvørja svovel sjálfsafneitunar sem verknadar skyldu, og svoleidis verda yfirgnæfanligir í gódum verkum, svo vel til þeirra eigin framfarar í helgun og krapti, sem til ad efla sínna medmanneskna tímanliga og eilífa velferd, og til ad vegsama hann, sem þá kallad hefur út af myrkrunum, til-

síns dásamliga ljóss. Eg áleit þad ogsvo naudsýnligt optliga ad vara-þá vid, ad dæma ecki um sitt sálar-ástand, eptir þeim brádhendls sinnishræríngum, sem gjøra kynnu samvitskur þeirra óróligar um hríd, heldur alleinasta eptir því, ef þeir findu, ad Guds elska og hlýdni hefdi hjá sér ítadfasta yfirhønd tekid, til ad kapp-kosta ad vera hønum þócknanligir, sem hlyti þá ad aud-sýna sig í samsvaranda framhaldi þess sama góda ásetn-íngs og athafna. Nýnæmi efnis þessa, og nockur um-breyting í mínum prédikunarmáta, uppvakti nú folksins athugasemi; þad tók ad þeinkja meira enn ádur, og stundum ad tala saman um andlig efni, og um rædur þær, sem þad heyrdi mig framflytja. En, þó vard eg ennnú ecki var vid, ad nockur djúplæg og stadfæst inn-ræting væri hjá nockrum verkud. Þær tvær persónur, sem eg ádur áminnst hefi, svo sem umvendtar til forna, høfdu á þessum tíma ødlast sterkari þeckíngu Evangelii enn ádur, og gétad því dreigid til sín huggunar styrk út af ordi hjálpræðisins, hvørsvegna þær tóku ad bera vitnisburd um nád Guds síns Frelsara. Þad hafdi verid vandi þeirra vid tækifæri ad heimsækja eina fá-tæka sjúka konu, sem leingi hafdi umgeingist med Gudi, og hvør ad nú lifdi ein sér, í litlu koti þar í nábúa þorpinu. Þad var ákvardad, ad áminnstar persónur skyldu koma saman í hennar húsi vissann tiltekinn tíma; og ad eg, ásamt nockrum frá heimili mínu, skyldu líka koma med þelm, og eyda einni kvøldstundu edur tveimur til ad lesa Guds ord, tala saman um þad, og bidjast fyrir. Þegar framlidu tímar, voru vissar fleiri per-sónur, sem leitudu eptir því eina naudsýnliga, þegar

þær heyrdu vora fyritekt og trúdu því, ad Gud væri med oss, inntæknar í vorn hóp, ad þeirra eigin beidni.

Í þessarar fátæku konu litla hýbýli, héldum vid svo áfram ad halda vorar samkomur í hvorri viku, allt til þess í Augúst mánudi 1799, þá Gudi þócknadist ad kalla hana í burtu, og flytja hana til samkvæmis þeirra frumgétnu á himnum; hennar blómligi vøxtur í nádinni hafdi øllum augljós verid, og hennar daudi var fullur af sigurhrósi.

Sumarid 1798 var kvøldmáltíd Drottins ákvordud ad haldast á þeim vanliga ársins tíma. Nockrum vikum ádur leitadist eg vid, í prédikun, ad útmála ennnú gjør, og med stærri heimfærslu til samvitsknanna, enn ádur, náttúru þessarar innstiptunar, og sýndi ofan á, hvilíkt sinnislag þeirra ætti ad vera, sem, eins og sannir Jesú lærisveinar, gjætu hennar verdugir ordid. Þeim upphvatningum og advørunum, sem eg gaf þá fólkinu, vyrdtist ad fylgja guddómlig blessan. Nockrir af því ádur regluliga Sakramentisfólki, þegar þad áleit sig nú vera í óumvendtu ástandi, héldt þad sér sjálfkrafa aptur frá, ad vera til Sakramentis. Adrir, eptir þad þeir høfdu vid mig talad heimuliga, um þad efni, tóku þad sama fyrir sig; svo ad tala þeirra, sem nú til Guds bords geingu, var mikid lítil, hjá því sem ádur. Því um nockur ár, hafdi tala þeirra, sem í einu gáfu sig til kynna, ad vilja gánga til altaris, verid hérumbil 30, 40 og stundum nær 50; en sumarid 1798 vóru þeir ecki yfir 12, af hvorjum eg tók þó ecki móti nema 9. Nú var ákvardad, ad Sakramentid skyldi á þessum tíma haldast aptur í Nóvember, og í þad skipti vard þó einasta 6 fleirum mótitekid til altarisgaungu, enn

ádur. Nú þó ad tala altarisgaungu fólksins minkadi svo mjøg á þessum tíma, vór þó eingu ad sídur tala þeirra, sem áhyggjusullir voru um sinn sálarhag; og þessi hugsýki sýndi sig mest medal þess yngra fólks, innan 25 til 30 ára. Þeirra þecking var ennnú ófullkominn og náttúrlig blygdan hindradi þá leingi frá ad opinbera ødrum sína þánká og tilfinningar; þeir áttu og heldur eingann þann vin edur kunningja, sem þeir álitu hæfann til ad dæma, af eiginn reynslu, um sitt sálarástand, og leggja þeim þaug réttu heilrædi. Sumir þeirra tóku ad heimsækja þá adra af þeim tveimur ádurnefndu umvendtu persónum, af hverra lestri og samtali þeir høfdu mikid gott. Fyrir milligaungu þessa sameiginliga vinar, komust þeir í frekari kunningskap, hver vid annann, enn þeir høfdu ádur verid. Stundum bar þad vid, ad eptir þad þeir búnir voru, ad vera vid embættisgjørd mína í kyrkjanni, tóku sig 2 edur 3 saman, og geingu á fund þeirra fáu áduráminstu trúudu persóna; edur skyldu sig frá fólksfjøldanum og fóru afsídis út á mørkina, til ad tala hver vid annann, út af sínum sálarefnum; og opt mátti undireins sjá, einn lítinn pillt edur stúlka, fylgja þeigjandi á eptir þeim, til ad hlusta gaumgjæfiliga á þeirra gudliga samtal. Nú svosem kvøldmáltíd vors Herra hafdi ádur verid mjøg vanbrúkud, med því ad leifa hverjum þeim, sem vildi, til hennar ad gánga, án þess hann á undan alvarliga ransakadur og áminntur væri; — þar ad eins var látid nægja, ad hann gæfid gjæti þolanlig svør til algeinginna spursmála, og væri þarhjá frí fyrir stórfeldum útvortis klækjum; — eins má þad vidurkénna, ad Sakramentum Skýrnarinnar var ecki minna vanhelgad. Eckért

nema einſtakt géfid hneigſli var álitid útilykia kynni nockurn frá, ad þéna vid þeſsa guddómligu ſiptun. Væri Fadirinn mjøg ſáfródur og laſtafullur, var honum kannſké nockur áminning edur ávítun géfin, edur hann var látinn útvéga ſér annann forlofara í ſinn ſtad, en varla hindradi þad nockurntíma barn hans frá ſkýrninni; og eckért var meir til laſts lagt medal vor, enn ad láta barn ſitt um nockurn tíma óſkýrdt vera; já, vaninn hafdi ſvo ſterka makt feingid yfir fólki, ad fleſtir unnu heldur til ad flytja barn ſitt meir enn þingmannaleid, til ad ſkýraſt af katólſkum Preſti, enn ad freſta ſkýrninni um nockurn tíma. Svo krofdu þá þær hjátrúarfullu ímindanir fólks um þetta Sacrament, og ønnur óſidſemi, ſem opt fylgdi tídkun þeſs, þetta krafdi, ſeigi eg, alvarligrar endurbótar. Eg tók því ad prédika nockrar rædur í ſamfellu út af ſkýrninni, og á ſama tíma fór eg ad ánýa vor kyrkjulog, ſem fallinn vóru í vanbrúkun, ſérilagi þaug, ſem fyrirbjóda þá ſvo kolludu ſkémri ſkýrn. Þarfyrir, þegar eg ſkýra ſkyldi barn, einhvørn dag í vikunni, hvort heldur í kyrkjunni, edur annarſtadar, héldt eg fyrſt eina undirbúníngsrædu, og ſídan framkvæmdi eg Sakramentid í nærveru ſafnadarins. En þegar eg ſá, ad þetta gat ecki alltid ſkéd í kyrkjunni, héldt eg ſlika rædu ſamt alltid, á undan ſkýrninni, heima í foreldranna húſum. A þennann hátt leidduſt margir til betri þeckingar um þeſsa Sakramentis náttúru, og gáfu því gaum ad henni med ennſtærri vyrdingu. Þad hafdi leingi verid foreldranna vani, ad gjøra, hvør eptir ſínu ſtandi, veitſlu nágrønn-

um sínum og skildmennum eptir skýrnina; og med þad slag hafdi þéssi heilaga athøfn, án þess ad vera álitin einhvor hin hátídligasta trúrœknis þiónusta, úrættst til hóldligs býlífis og vidhafnargiidis. Þad gudhrœddasta fólk medal vor hefur því géingid á undan ødrum, í ad leggja nidur sidvenju þessa.

Í Febrúario 1799 þóknadist Gudi ad kalla heim til sín mína elskuligu konu, eptir þad vid høfdum saman verid litlu leingur, enn 5 ára tíma. Hún hafdi ogsvo þróast mikid í nádinni, þaug 2 seinustu ár, sem hún lifdi. Hún þjádist nockra mánudi af sjúkdómi, sem af hennar kroptum smámsaman dróg, og olli henni stundum sinnisdeyfdar; en trú hennar og traust á sinn Endurlausnara, var þó alltíd jafnstødugt og ókvikullt. Skilnadur hennar frá heiminum var hægur, án þinu nockurrar edur baráttu. Hennar ljúflynda og hógværa sinnislag, hennar vaxandi elska til hennar Endurlausnara, og sá føgnudur, sem hún í ljósi lét, yfir þeirri von, ad hún innan skamms feingi hjá hønum ad vera; þetta allt gjørdi blessada uppbyggíngu medal ockar gudhrœddu nágranna, sem opt komu til ad vitja hennar. Í þeim nærstfylgjanda Marts mánudi 1799 tók eg ad prédika nockrar rædur út af endurfædíngunni, hvørju eg héldt áfram allt til komanda Júlii. Ad þessum rædum var gaumur géfinn, med stærri uppvakníngu yfirhøfud, heldur enn, allt til þess tíma, hafdi auglýst sig vor á medal. Sjaldan leid ein vika svo út, á hvørri vér ecki sjá mættum, eda heyra gétid um eina, tvær edur þrjár manneskjur, sem uppvakist høfdu, til áhyggjusemi, um

sitt sálar-ástand, hverri að fylgdi sterk sannfæring um syndina og inniligasta laungun eptir Endurlausnararum. En það varð þessum til stórra nota, að þar voru aðrir komnir á undan þeim á veginn áður; því nú voru þeir sjaldan í efa um, að finna nockurn þann sér kunnugann, hverjum þeir frjálsliga þyrðu að opinbera sína hjartans áhyggjusemi. Í heimili eins þess, sem meðal vor var einhverr hinn sterkasti í trúnni, var aðaltilflugtstaður öllum þeim, sem gyrntust að eyða einni eður tveimur stundum, til að lesa eður tala saman um andlig efni. Sumir þeirra, sem nýliga höfðu feingið í sig alvarliga þánka út af trúarbregðunum, og ecki voru þó enn-nú komnir svo lángt, að seigja frá því, sem þeim í brjósti bjó, fundu sér eitthvað til erindis að heimili þessarar persónu, til að hlusta á tal hennar. Stundum heimsóktu hana líka nockrir fyrir nýúngagirnis sakir, og til að sýna fremd sína með að fara í kapptal við hana, og vildu bera sig að setja út á orð hennar. Hún umflúði þesshattar fólk ecki heldur, og loksins hættu þeir að ónáða hana. Aðrir velreyndir Christnir vor á meðal hafa orðið sínum ýngri bræðrum og systrum til mikillrar uppbyggingar. Umgeingni þeirra og eptirdæmi hefur orðið það besta meðal til að snúa athugasemi þess ýngra fólks til trúarbragðanna, og til að uppbyggja þá, sem allareiðu hafa uppvaktir verið. Slíkar manneskjur hefi eg fundið hina allra gagnligustu aðstoðarmenn í þeim efnum. Þó þeir hvorki verið hafi Spámenn, Postular né Kennifeður, má þó gagnsemi sú þeir gjöra í sofnuðinum, gefa þeim rétt til að kallast meðhjálpendur (1 Cor. 12, 20);

og ei heldur hugsa eg, ad einn Postuli mundi taka í efa, ad telja þá — hvört sem þeir væru kall edur kona — í tolu mederfidaranna (Phil. 4, 8). Sá luckuligi framgángur í þessu gudliga verki hjá oss, hefur þó ei takmarkadur verid vid þaug verkfæri, sem hjá oss uppkomid hafa; því hin sama verkan hefur á vissann hátt fylgt prédikunum, bænum og samtali annara gudhræddra bræddra, sem verid hafa vid handtéran þeirrar heil. kvoldmáltidar hjá oss, edur hafa heimsókt vss, vid onnur tækifæri. Pad er vel athugandi, ad þetta umvendunarverk hefur byrjast og framgáng haft medal þessa safnadar, á mjog róligann hátt, án nockurrar gédstrubiungr, og fyrir útan þvilikar óstjórnligar sinnishræringar, edur drætti í likamanum, óp og ómegi, sem opinnis fylgt hafa slikri almennri uppvakníngu, í odrum plátsum. Ein úng kvennpersóna hrærdist svo frekt í kyrkjunni í Marts mánadi 1799, ad hún grét svo beisklíga, ad vinir hennar álitu rádligt ad fylgja henni út úr kyrkjunni, ádur enn fólkid burtu færi. Hún var um 5 edur 6 daga þareptir ófær til sinnar vanaligu vinnu. Í þá nærstkomanda Júnió, um þann tíma, sem vær geingum til Sakramentis, fann hún hjá sér þvilikar gédshræríngar um fáeina daga, ad allir hennar þánkar dróguſt ad miklu leiti frá útvortis formerkjanligum hlutum. Andligar ímindanir vóru óvenjuliga sterkar hjá henni; og þeir andligu hlutir, sem hún hugsadi um, vyrdtust henni sem nálægir og sýniligir; en allar hennar meiníngar vóru þó aldeilis samhljóda Ritníngunni. Fám dogum sídar, þegar hræríngar þessar hofdu nockud sefst,

sagdi hún mér, ad hún um þann tíma hefdi fundid til þess, ad hugskot sitt hefdi nockud óskýrlátt verid, en hún kvad sér hefdi til hugstyrkíngar ordid, ad þeinkja til þessara Postulans orda: "ef vér erum utan vid sjálfa oss, þá er þad Guds" (2 Cor. 5, 13); og þvílíkt var aldeilis hennar ástand. Hún heldur nú áfram ad vera audmjúk, en lítilmikil christin manneskja; og ad undanteknum þessum tveimur tímabilum, hefur hún regluliga verid vid sín vanaligu verk, svosem vinnustúlka, svo húsbændur hennar hafa alls ánægdir verid yfir henni, hjá hverjum sømu hún enn-nú er til vistar. Onnur kona, húsmódir á heimili nockru, vard í nærstlidnum April mánudi svo mjøg hrærd undir einni prédikun, ad hún, eptir eigin bón, fór burt úr kyrkjunni. Fyrir utan þessi tvø tilfelli, sem eg hefi frásagt, veit eg eingar adrar manneskjur, hverra gédshræríngar, undir Guds orda heyrn, hafi látid sig í ljósi á annann hátt, enn einúngis med þeigjandi tárum.

Þegar eg seinast gjørdi tølu yfir þá í vorum søfnudi, hverja eg, eptir minni bestu þeckíngu, héldt ad eg med vissu reikna kynni ad vera sannupplýsta med sáluhjálpligri Christi þeckíngu, fann eg þeirra tølu ad vera hérumbil 70 manns. Sá mesti hluti þessara er undir 30 ára aldri; nockrir eru um fertugt; 6 edur 7 þeirra eru um fimmtugt, einn 56 ára, og einn um sjøtugt. Af bernum undir 12 edur 14 árum, eru ogsvo ædi mørg, er sýnast hafa líkindi til uppvakníngar; en þad er torsókt ad ákvarda nockud fullvíst um þeirra ástand. Af persónum, sem dáid hafa innann þessara 12 mánada,

erum vér fullvíssir um 3, og hofum von um adrar 3, ad þær dáid hafi í sannri trú á Jesúm. Mikill fjoldi þar fyrir utan, er trúarbrogdunum vinveittur, ann sannleikanum og tekur hann í forsvar, jafnvel þó þeir sýnist ennnú ecki ad lifa undir hans valdi. Fáeinir á medal vortóku um hríd ad hæda þá gódu og draga gis ad þeim; en þared þvílíkar persónur voru þær allra færstu, hafa þær þessvegna aldeilis hætt ad sýna nockrar óeyrdir. Enda er Ritníngin svo allstadar lesin yfirhofud, og til hennar skýrskotad, ad sjálfur sannleikurinn hénar til ad byrgja fyrir spottaranna munn. Oss hefur stundum sagt verid, ad meiníngar og tal fólks vors sé mikid misskilid í odrum plátsum, og sé þessvegna haft þar ad spotti og illa um dæmt; en vér hofum ei nema sogusogn eina um þetta; þad hefur valla nærri oss komid. En þær mestu mótsetníngar gjora þeir, sem eru skólalærdir og þykjast því hafa betri skilníng á Ritníngunni, enn almúginn. Þessir menn standa á því, ad þar géti eingar ástædur verid til, edur naudsýn þeirrar innvortis reynslu-þeckíngar, sem ólærdir menn látist feingid hafa í trúarbrogdunum, og seigja, ad þad séu ecki nema sérþókta innbirlíngar þeirra, ad ímynda sér, ad þeir géti haft stærri, sáluhjálpligri þeckíngu, þó ólærdir séu, enn þeir menn, sem eru skólalærdir og handgeingnari Ritníngunni, enn hinir. "Erum vér ogsvo blindir?" er þad gamla óvildurkvæmiliga túngumál holdligrar speki, bókvísinda stolts og innbirlíngar um sitt eigid réttlæti. Þad er þó ollum augljóst, ad heilog Ritníng fyrir sjónir setur allt maankyn svo sem skipt í tvo hópa. Þessir hópar ad-

greinast hvor frá ødrum, á þann allragløggvasta hátt, og þessi adgreining er mørkud þeim allrasterkustu orda-tiltækjum, og þeim allra-meiningarfyllstu samlíkingum. Sumir eru kalladir: børn Guds, adrir børn Djøful-sins (1 Jóh. 3, 10); børn ríkisins og børn þess vanda (Matth. 13, 38); þeir réttlátu og þeir vondu (Matth. 13, 49); þeir sem daudir séu í yfirtrodslum og syndum, og þeir, sem endurlifnadir eru ásamt Christo (Eph. 2, 1—6). Þeim verdur samlíkt vid hveiti og agnir (Matth. 13, 25); vid góda og vonda fiska (Matth. 13, 44), vid saudi og hafra (Matth. 25, 32), og svo framveigis. Í øllum minum prédikunum yfirhøfud, en þó sérdeilis í útleggingu þess mikilvægasta lærdóms um endurfædínguna, hefi eg kapps um kostad, ad leida fólkinu fyrir sjónir adgreiníngu þessa, svovel sem eg hefi gétad. Margir hafa ad vísu ei allitíd styggst vid þessa sundurgreiníngu; hafa talad illa um prédikar-ann, og lagt slíkt út fyrir kjærleikslausann dóm, berandi þad fyrir: ad einginn nema Gud, hefdi rétt til ad dæma mannesskjanna hjørtu; ad þeir vonudu ad verda sálu-hólpnir, þó ecki gjætu þeir gjørdt svo álitliga framfør í Christindóminum, einsog eg kénndi, og fleira þesshattar. Eingu ad sídur vann þó sannleikurinn sigur; og sumir hafa játad fyrir mér, ad sú fyrsta alvarliga hugsýki útaf ástandi sálar sinnar, hafi sprottid af þeim þúnga eptir-þánka, sem hjá sér vakist hafi, þegar þeir hafi heyrdt, ad eg setti þá í hóp med vantrúudum, jafnvel med heidn-íngjum og afgudadýrdkurum (Opb. 21, 8). En midt í því eg leitadist nú vid ad géfa þvílikt hneigsli (þó í

sjálfu sér eckért annad væri, enn naudsýnligar advaranir), kann eg alvarliga til, hvørsu eg Þyrfti Guds anda vid, til ad dempa alla beyskju í ordatiltækjum mínum og adferd, til ad vekja hjá mér vidkvæma medlídingu med Þeim, til hvørra eg Þannig taladi; svo eg gjæti hæfur ordid til ad tala sannleikann í kjærleika. Ad vísu vard eg hjá vorum nýumvendtu var vid ædi ólík og mismunandi tilfelli, en Þó eingu ad sídur vid sérdeilis merkiliga samhljódun í Þánkamáta Þeirra. Sumir Þeirra eru ad sönnu nidurslégnir, adrir hughraustir, eptir Því sem hvør um sig festir framar sjónir á sínum eigin ávyrdíngum og spillíngu, ellegar á Þeirri dýrdligu fullnæjugjörd Christi. En allir Þeir hafa ad vísu samt, Þad sama sinnislag í tillíti hjartanligs innbyrdis kjærleika hvørr til annars, og allra Þeirra, sem Jesúm elska, og í tillíti áhyggjusemi sinnar fyrir Þeim hlutum, sem Þar uppi eru. Eg Þecki eingar persónur Þeirra á medal, sem hafi (eins og sumir) sett traust sitt á andliga drauma, sjónir, innfell eda driftir; og vart eina manneskju, sem gymst hafi ad odlast trúarstyrk af útvortis teiknum edur merkjum; til hvørs Þó sumir hafa, af eiginn Þókta, tekid sér snid, af dæmi Abrahams Þénara (Gen. 24, 14), og Gideons (Dóm. b. 6, 36—40). Vér höfum ecki heldur ennnú orsök, ad spyrgja yfir nockurri stórvægri hrösun Þeirra medal vor, sem tekid hafa ádur sonn sáluhjálplig sinnaskipti. Þar kunna ad sönnu géfast Þær persónur, sem um hríd sýndst hafa verda áhyggjufullar og hugsjúkar, en hafa Þó eptir á fallid tilbaka til síns afskiptaleysis. Eg hefi ad sönnu orsök til ad gruna, ad

þar kunni ad vera nockrir þessháttar, en eg hefi samt ecki feingid færi til ad þeckja fyrir víst sinnislag þeirra. Ó, ad Drottinn vildi opinbera þad fyrir sjálfum þeim í tíma! En allir þeir, svo mikid eg veit, sem einusinni syndst hafa verda sannarliga audmýktir vegna synda sinna, og feingid hafa ad reyna í hjarta sínu Guds nád útaf Evangelío, þeir halda áfram, sem ádur, ad audsýna audmjúka, andliga og samvitskusulla umgeingni. Þeir hafa stadfasta laungun eptir þeirri einfoldu Evangelíi mjólk, og eptir christiligu samfélagi hvør med ødrum. Þad yngra fólk hefur aflagt alla léttúd í tali og hegdun, og eru ordnir andagtarfullar og bindindissamar manneskjur, en þeir, sem eru meiri ad aldri, hafa til sídu sett allann sjálfsþókta og heimsligt sinnislag, en eru ordnir audmjúkir, ánægdir og þacklætisfullir. Utvortis verkanir af alþýdligri virdíngu fyrir trúarbrøgdunum, hafa jafnvel látid sig í ljósi í hegdun þeirra, hjá hvørjum þó hefur ecki ordid vart vid neina sanna hjartans umbreytíngu. Medan þad yngra fólk géck á sunnudagsskólana, pløgudu ad undanførnu þeir eldri ad eyda kvøldi þess dags, med því ad vera ad reika út um merkur og skóga, í lístugum hópum, ellegar med því ad finna kunníngja sína á fjarlægum stødum, án þess ad brúka þann tíma til nockurra andligra æfinga. Nú síest þetta ecki framar; og eingin manneskja sem gángi á bæi, nema þeir sem reisa til þeirra húsa, hvar menn koma saman til ad lesa heilaga Ritníngu og til ad dýrdka Gud. Munneidar, heidíngligt tal, dárlig og ósidsamlig skémtan er ad miklu leiti hætt. Þad var ádur sidur, ad fólk kom

saman, þegar einhver nágranna dó, til ad vaka hjá líki hans, og eyda allri nóttunni med bernskuligum hávada, skémtun og dægrastyttíngu; og stadur sá, hvar þeir frömdu þessi hégóma læti, var sá, hvar líkid lá. Þessi ónáttúrliga venja, sem mikid algeing var í miklum parti Upplandsins, er nú rétt ad seigja til fulls og alls aflögd, í þessu héradi. Menn koma ad vísu saman vid þetta tækifæri, en þeir eyda tímanum ei til annars, enn ad lesa í Bibliunni edur ödrum andligum bókum, og med uppbyggiligu samtali.

Í tilliti þeirrar ydar bónar, (seigir sá sem þetta bréf í upphafi ritad hefur), ad eg skýri frá merkiligum samtölum, sem medal fólksins hafa haldin verid, hlýt eg ad játa, ad eg ecki hefi mikid stakligt, hvad þad efni snertir, frá ad seigja. Eg hefi allareidu á þad minnst, ad nær því allir samfundir vorir og samtöl eru ad miklu leiti brúkud til umhöndlunar og ransóknar andligra efna, og þad med róligum og kyrlátum hætti. Fyrir kostgiæfinn athugara er umbreyting sú, sem lætur sig í ljósi, í umgeingni, tali og hegdan, jafnvel á yfirbragdi vissra persóna, nærsta merkilig; já bersýnilig er líka svo umbreyting á allri fólksins háttsemi og hegdun yfirhöfud.

Þessi, sem sagt er, er nú verkan sú, sem almennt, og yfir þad heila, hefur sig í ljósi látid; eingu ad sídur eru þar þó sáein einstök tilfelli vissum persónum vidvíkjandi, sem, út af fyrir sig skodud, hljóta ad sýnast óalmennilig og maklig þess, ad þaug útlistud væru í einni skýrslu út af fyrir sig. Eckért merkiligt eptirdæmi höfum vér uppá þær persónur, sem, ádur þecktar ad

blygdunarlausu líferni til orda edur verka, hafi vid þessa almonnu umvendun, aptursnúið frá slíku ógudligu athæfi, vegna þess ad hér var einga þesskonar manneskju ádur ad finna í vorum sofnudi; umbreytingin hefur því mest sýndt sig í því, ad þeir sem ádur voru sáfródir, hálfvolgir og hyrdulausir í andligum efnum, eru nú ordnir upplýstir, áhyggjufullir og socknir, med gledi, nidur í andliga og himneska hluti. Ei heldur eru þar dæmi, medal vor, til þeirra manneskna, sem mjøg hastarliga hafi uppvakist edur hrærst vid nockur voveisligt tilfelli, edur stakligar milliverkanir forsjónarinnar. Ney, ord sannleikans opinberliga prédikad, edur heimugliga talad, hefur ad mestu leiti verid þad eina útvortis medal, til ad verka hjá fólki sannfæríngu um syndina, og traust á Frelsara heimsins. Í sérhvørju stakligu tilfelli er sjáanligur Guds kraptur í þeim framkomnu verkunum; en þar er þó mjøg lítill mismunur á þeim somu verkunum. Þessvegna í stad þess ad leitast vid ad útmála þann helgunar blóma, sem auglýst hefur sig hjá fólki hér umkríng, óska eg miklu framar, ad fá af ydur, og odrum vinum vorum, sem girnast ad njóta gledi af þessu sjónarspili, ad þeir sjálfir komi híngad og sjái þad med eigin augum.

Svoleidis hefi eg nú, minn Herra! leitast vid ad gjøra sanna útmálan þess farsæla ástands Christindómsins í vorum sofnudi, á þeim sídarst lidnu 2 edur 3 árum. Já, vér njótum enn=nú þeirrar lucku, ad vér vitum til, og verdum varir þeirrar somu áhyggjusemi og uppvakníngar enn nú hér allt í kríngum oss, sem

jafnvel útbreidir sig til nockurra nálægra safnada. Persónur, sem hafa átt heima hérum hálfa þíngmannaleid lángt frá oss, hafa komid til vor á einum Sabbatsdegi, fullar af sjáanligri áhyggju fyrir sálum sínum. Næsta Sabbatsdag eptir hafa þær somu persónur komid aptur, og haft þá í før med sér nockra stallbrædur, í líku ásigkomulagi. Allar þessar manneskjur eru, ad svo miklu leiti ályktast gétur af útvortis áliti, á þeim vegi, sem góda von géfur um umvendun og velferd þeirra. A þennann hátt er nú varid þeirri margfoldu nád og miskun, sem Drottni þóknast hefur ad vitja fólks med, í þessum afkyma síns víngards.

Vér erum nú þess fulltrúa, ad allir vorir christnu brædur, sem þessa glediligu fregn fá ad heyra, munu sameina sínar bænir med oss, um þad, ad Gud vilji framhalda ad vokva med doggu blessunarinnar "sinn eiginn víngard, sem hans hægri hond plantad hefur", svo ad eingum villugélti frá skóginum, lídist ad eydileggja, og eingum ormi frá rótinni, ad stinga, þad sem er sannarligt hveiti!

Eg finnst o. s. frv.
N. N.

Hvorsu merkiligur spegill er frásaga þessi til að skoða sig í, bædi fyrir kénnendur og tilheyrendur! Hún sýnir:

1) Hvorsu að á sannri umvendun kénnendanna sjálfra ríði stór mikið, ef embætti þeirra skal sonn blessan fylgja.

2) Að kénningin kann að vera áheyrilig og vel til siðbóta þénandi, án þess hún hafi í sér þann sanna evangeliska anda.

3) Að útvortis lifnaður, svo vel eins kénnara sem tilheyrara, kann að vera allsæmiligur, þó þaug sonnu andligu sinnaskipti vanti.

4) Að einn kann að rækja útvortis meðöl náðarinnar, nefniliga Guðs orð og Sakramentin, eptir mannalögum og vana, og vera samt óumvendt manneskja fyrir Guði.

5) Að sonn hjartans umvendan — hvört heldur hjá kénnendum eður tilheyrendum — sýnir sig jafnan með líkum kénnimerkjum; hjá Prestinum, með alvarligri viðleitni, — svo vel utan stóls sem innan — að fá verkað sanna umvendun síns sóknarfólks; eins hjá foreldrunum í tilliti barna sinna; og hjá húsbændunum í tilliti hjúanna.

6) Að til þess að uppvekjast til sannrar umvendunar, er, næst því að umgángast sonn Guðsborn persónuliga, gagnligt, að lesa sannar frásögur af þvílíkum, og bera sig sjálfann saman við þeirra dæmi.

7) Að staðfost bænrækni — ecki síður heimugliga enn opinberliga — er, ásamt með ræktiligum lestri og

áheyrn Guds ordq, aldeilis ómissandi, ef nockur sonn umvendan skal stad hafa.

8) Ad Gudi þoknanlig tídkan Sakramentanna gétur aldrei skéd, nema manneskjan sé ádur í sannleika til Guds umvendt ordin.

9) Ad midt í því, ad einn, sem er sannarligt Gudsbarn, edur af alvoru er ad kappkosta ad verda þad, og sárlángar því eptir Jesú kvoldmáltíd, er hann þó opt miklu hræddari um, ad hann sé til hennar óverdugur, enn sá ydrunarlausi hræsnari.

10) Ad þad er ecki svo merki þess, hvad verdugliga einn geingur til altaris, ad hann gjorir þad opt, sem hitt, med hvad gódri tilreidslu og ávaxtarsærslu á eptir, ad hann gjorir þad.

11). Ad sá sem af hyrduleysi vanrækir ad gánga til Gudsbords, sýnir ad hann er sannur Guds nádar forakttari, sem bædi steypir sér og odrum, sem taka þad eptir honum, í eylífa glotun. En sá sem geingur þad eptir reglu, en þó óumvendtur, skadar ad sonnu, eins sem hinn, sjálfann sig, en hneigslar þó eck eins adra, sem halda máské ad hann sé betri enn hann er, og breyta því eptir því sem þeir meina ad hann sé.

12) Ad Sakramentum skýrnarinnar kann — á sinn hátt — eins ad misbrúkast sem kvoldmáltídin, þegar þeir, sem ad því þéna, hvort heldur Prestur, foreldrar edur Gudfedgin, eru í rauninni óumvendtar manneskjur, sem gleyma opt skyldu sinni, ad brýna skýrnar sáttmálann fyrir bornunum, nær þaug eldast, jafnvel þó

stýrnin sjálf verdi þeim samt ad notum, medan úng og óvitur eru.

13) Ad brádhendis sinnishræríngar undir Guds orda heyrn, gudligir draumar og þesshátar, eru eingin viss merki sannarligrar umvendunar, heldur stödug sinnis- og lifnadar-lags umbreytíng, frá hálfvelgju til alvöru-géfnis, í ydkun gudræknínnar, heimugliga og opinberliga.

14) Ad eínginn — hvörki Prestúrinn né adrir — meiga setja á sig lof edur last annara fyrir alvöru-géfni sína í andligum efnum, heldur fara því fram, sem Gud og samvitskan býdur, hvört heiminum líkar þad vel edur illa.

15) Ad þeir sem sönn Gudsbörn eru, eru þó ecki allir jafn fullvíssir um sitt nádarstund; en eins og hinir veiktrúudu hljóta ad vara sig vid örvæntíngu, svo eins hinir sterktrúadri vid oftrausti; á hvörju sídara skéri ad miklu fleiri stranda, enn á hinu fyrra.

16) Ad eptir því sem hjartalag manns betrast hid innra, eptir því betrast alltíd lifnadur hans hid ytra; en ecki er útvortis sidsemi alltíd víst merki sannbetrads hugarfars.

Hvör þetta les, hann hugsi þar eptir, í Guds nafni!

---

☞ Evangelisk Smárit frá byrjun Nr. 58, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi gefins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þaug edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim sem þeir færa þaug, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1845. Prentad hjá S. L. Møller.